[Þess íslendska evangéliska
smábókafélags rit Nr. 25.]

# Spádóms-teikn

géfin

## þeirri ísralitisku og christiligu kyrkju.

útlagt úr engelsku af útgéfaranum.

---

Jurþhafi þess 16 Cap. Matthæi stendur, að Pharisæar og Sadúcæar hafi komið á fund við Jesúm, til að freista hans, og beiðst að hann sýndi sér Teikn af Himni, en han hafi svarað þeim og sagdt: Þegar kvöld er, seigið þér, það verdur (á morgun) gott verdur, því skýin eru rauð; en á morgna seigið þér, í dag verdur hreggviður, því himininn er rauður og dimmur. O þér hræsnarar! Himinsins ásýnd kunnið þér að dæma; en hvar fyrir gétið þér þá ecki dæmt Teikn þessara tíma?»

Með þessum orðum géfur Frelsarinn berliga í skyn, að Guðs ráðstöfunum í tilliti Gyðínga þjóðarinnar, hafi á þeim tímum svo háttað verið, að þeir sem rannsaka vildu þá spádóma gamla Testamentisins, er þær áhrærðu, og það með sömu gaumgiæfni, sem Pharisæarar og Sadúcæ-

erar adgjættu áſhnd og útlit himinſins, hefdu gétad fullſærir ordid til, med ánægjanligri viſſu, ad ſkilja þýdíngu þeirra og tilllit.

Þad þarf eingis ſtakligs ſkarpvitarleika vid, til ad ſkoda rádſtafanir Guds yfir Gydíngalíd, og þau margfſaldu og merkiligu teikn, ſem hann á þeim tíma unti þjód þeirri, til þeſs madur þar af géti ſjed og ſkilid, med hvílíkum rétti ad Frelſarinn ávítar Gydínga, í ádur framfærdri grein, fyrir heimſku þeirra, og þad med ſvo ſtríd-um og nidrandi ordum. En þá Spádóma, ſem þeſſu málefni viddvíkja, tel eg hina heldſtu þrja, ſem eptirſylgja:

Fyrſt þegar Jacob, ſkømmu fyrir ſinn dauda, ſagdi ſonum ſínum fyrir þá hluti, er framkoma mundu vid þá og nidja þeirra, á ſíd-ari tímum, þá, midt í því hann ſagdi bleſſun yfir Júdah, ſpádi hann: «ad veldisſpíran ei ſkyldi frá hønum víkja, né løggjafarinn frá hans fótum, fyrenn Schilo kjæmi, og til hans mundu þjód-irnar ſér ſamanſafna». Þeſſi ſpádómur haldi nú rétt fyrir augum Gydíngafólks nád ſinni upp-fyllíngu. Veldisſpíran var nú allareidu víkin frá Júdah, því þar var ei framar neinn ſtjórnari af þeirri kynkvíſl, yfir Iſraels húſi; hvar af flaut, ad Phariſæar og Sadúcæar mættu vel ſkilja, ad ſá tími var kominn, á hvørjum Meſſias ſkyldi opinberaſt.

Næst þessum spádómi var þar einn annar jafnaugljós og greiniligur, hvar ogsvo náð hafði sinni uppfyllíngu á því markverda tímaskeidi; eg meina til Daníels spádóms, um þær 70 vikur; hvør ed finst í hans málabókar 9 Cap. Því ádurenn Christur kom, var Gydíngum alhægt, med stærstu nákvæmni, ad reikna, hve leingi þad tiltekna spádóms tímabil, um þær 70 vikur, vara skyldi. Spásøgn þessi ber í sínu eigin skauti einslags vísbendíngu til hennar rétta skilníngs; því hún áqvardar ecki adeins tíma þann, sem lída skyldi til Christs komu, heldur einnig þann, sem þurfa mundi til þess, ad borgin yrdi, eptir þá babyloniska herleidíngu, bygd upp aptur, og stjórnarstand þjódarinnar fullkomliga í lag sett, sem vera skyldu 7 vikur edur 49 ár.

Sú merkiliga og alþeckta uppfylling þessa atridis, í tilliti tedra 7 vikna, gjørdi øllum þeim, sem annars høfdu nockurn hæfiligleika til ad ransaka gamla Testamentisins spádóma, nærsta audveldt, med ljósum og vissum røkum, ad skilja, ad tímabil þad, sem lída skyldi þar til Messías opinberadist, væri einmidt 490 ár, edur 70 spádóms vikur, frá þeim tíma ad telja, sem þad bod útgeck frá Cyro, ad byggja upp aptur borgina Jerúsalem. Og eins og menn nú vissu, ad þessar spádóms vikur útrunnar vóru, svo drottnadi þar og, medal allrar Gydíngaþjódar, almennilig og velgrundud eptirvæntíng, ad Messías mundi

þá og þá ovinberast, rétt á þeim tíma, sem Jesús byrjadi sitt predikunar embætti.

Þad þridja sem ogsvo fullkomliga álítast má sem teikn, gefid Gydíngalýd, uppá tilkomu Messíæ, var embættis sendíng Jóhannesar skýrara.

En þad sídarsta og allra ómótmælanligasta merkid, sem þessari þjód af Gudi gefid var, til stadfestu þeim dýrmæta sannleika, ad Jesús af Natzareth væri vissuliga sá Christur, sem heitinn var fedrum þeirra, auglýsti sig í þeim almættis- og miskunar-ríku dásemdar verkum, sem dagliga af þeim himneska endurlausnara framin vóru. Því þau vóru þessháttar, ad spádómar þeir, sem ádur höfdu framfluttir verid um Messías, uppfylltust nú rétt fyrir augum þeirra; þar sem því var svo greiniliga fyrirspád, er þá rættist: «ad augu þeirra blindu opnudust, eyru þeirra daufu upplukust, sá halti hljóp sem hjörtur og túnga þess mállausa tók ad sýngja».

Þegar nú öll þessi teikn, sem vér talid höfum, eru til samans tekin, þá eru þau þeirrar náttúru, ad þeir sem blindir voru í þeirra þjódíngu, létu þar med í ljósi, ad þeir í öllu tilliti mættu lítils guddómligan bodskap. Þeir voru fáfródir; ecki sökum þess þá skorti medöl til uppfrædíngar, heldur vegna þess þeir hötudu sannleikann. Hugir þeirra vóru ad sönnu fylltir þeirri stærstu eptirvæntíngu, ad Messías þeirra konúngur birtast mundi, í þeim kríngumstædum,

hvørjum fylgja mundi sú allramesta vegsemd og veldi; að hann brjóta mundi ok Rómveria af þeirra hálsi, að hann upphefja mundi Gydínga þjóð yfir allar heimsins þjóðir, og að þeir (nefniliga skriftlærdir og Phariseararar) mundu ødlast þá ædstu æru og embættis tign í hans ríki. En þegar nú Jesús af Nazareth eingu að síður opinberaðist, og hrópaði sig að vera þann Messías, sem fyrirheitinn var fedrum þeirra; þegar hann nú kom hógvær og lítilátur, og sýndi eingin önnur merki, enn hógværdina eina til sinnar útvortis kóngstignar; já, var svo lángt frá því, að sækjast eptir að koma sér fram við presta og höfdíngja Gydínga lýdsins, að han þvert á móti sókti eptir að samlaga sig þeim lægstu medal folksins, þá steitti sig drambsemi þeirra svo á þessari hans breitni, að þeir vísvitandi luktu augu sín fyrir øllum þeim mørgu og augljósu kenni merkjum, sem spámenn þeirra framsett høfðu um Messías, samt þeim ótøluliga stóru kraptaverkum, sem sjálfur Christur, sá Davíðs sonur, medal þeirra framdi. Þeir gátu því ecki dæmt rétt um tímanna teikn, hvørsu fjøldamørg skiljanlig, og augljós, sem þau vóru, vegna síns holdliga skaplyndis og vantrúar.

---

Nú er það víst, að þessi orð Christs, sem vér fyrir umhøndlunar efni høfum, líta eingan veiginn einskostar til Gydínga lýds. Þau sømu

sannleiks orð og rit, sem á þeim tímum miðuðu til Gyðínga þjóðar, eru nú meddeild oss heiðíngjum, og í þessum heil. ritum eru ogsvo gésin þvílík merki, af hverjum allir þeir, sem færir eru um að yfirvega þau með greind og gaumgæfni, géta, með allæmiligri náfvæmd, lesið og skilið, að minstakosti þær ytstu línur ráðstöfunar Guðs, í tilliti sinnar kyrkju, á þessum síðurstu tímum. Því það er athugaverdt, að í þessum heilögu ritgjörðum, er ecki einúngis að finna spádóma um þvílík tilfelli, sem undangeingu og medfylgðu auglýsíngu Messíæ hér á jörðunni, heldur ogsvo þvílíka spádóma, sem yfir höfuð líta til þeirra áqvarðána Guðs, um ástand hans safnaðar, sem ná allt til heimsins enda.

Á sérhverjum heims aldri hefir Guði þóknast að unna mönnum þvílíkra kénnimerkja, er sýna þann almenniliga stjórnarhátt hans forsjónar, og senr gésið hafa hans kyrkju tilefni, með tækiligri greind að skilja, hvörsu spádómarnir kynnu að heimfærast uppá þá tilburði, sem þá skéð hafa. Nýa Testamentisins kyrkja hefir í þessu tilliti, svovel sín Teikn, sem hin gamla. Þessi hér eptirfylgjandi meiga álítast svo sem einhvör hin ypparstu og augliósustu: tel eg þá

Fyrst eydileggíngu borgarinnar Jerúsalem, svovel sem stjórnarstands og ríkis Gyðínga þjóðarinnar. Þessi umbiltíng var berliga fyrirsögð af vorum Herra, hjá Matth. 24 og Luc. 21. Og

þegar Jerúsalem var umkríngd ordin af því rómverska herlidi, vóru Lærisveinar Jesú og sannir áhangendur hans trúarbragda svo fullvissir um, ad þetta væri óyggjanligt teikn hastarligrar og algjörrar eydileggíngar Gydínganna kyrkju og stjórnarstands, ad, vegna þess þeir svo graudt athugad höfdu tímanna teikn, vóru þeir svo vel undirbúnir ad taka á móti þessu tilfelli, ad ecki einn einasti þeirra vard hluttakari þeirrar skélfiligu eydileggíngar. (a).

Þad annad stóra Teikn sem gefid er og í spádómum nýa Testamentisins fyrirfram bodad christiligri kyrkju, er auglýsíng og uppkoma þeirrar forynjúligu ránglætis stiptunar, sem í ritníngunni nefnist madur syndarinnar, Babylon og svo fr. Med ljósum ordum verdur til þess bendt í biblíunni, ad þessi ógurliga myrkranna ríkis eptirmind skuli vid lídi verda um mjög lángan og hörmúngafullan tíma nefniliga í 1260 ár. (b). En þegar sú tíd er til lykta leidd, er christilig kyrkja um þad fullviss gjörd, ad Babylon skuli enda taka, ad hún skuli þá eins og annar milnusteinn, hvörjum í hafsins djúp varpad er, svo algjörliga afmád verda, ad hún aldrei ad eilífu framar á fætur rísi. (Op. 18, 21).

Þad þridja mikilvæga merki sem Jesús meddeildt hefir sinni kyrkju í Testamentinu, má þá, eptir ádur sögdu, álítast eydileggíng téðrar babyloniskur byggíngar. Og þad er augljóst ad

teikn þetta er það, til hvörs yfirvegunar að Je-hóva lætur alla þá nú á tímum snúa augum sínum, sem horfa til framtíðarinnar, med einni áhyggjufullri eptirvæntíngu þeirra sælu og dýrð-ligu tíma, sem koma skulu, þegar Christs kyrkja lofsins frelsast frá því myrkranna oki, undir hvörju hún hlotið hefir að þjást og mæðast, svo leingi, sem hin lángvinna og dimma nótt þess Rómverska Tórannadóms og hjátrúar varað hefir. Um margar umliðnar aldir hafa þeir hei-lögu Guðs, ecki gétað opnað augu sín, til að líta annað tímanna teikn, en konu þá sem klædd hefir verið skarlati og purpura, haldandi á stórum gull-bikar í hendi sér, af hvörs eitri hún hefir drúck-nar gjörðt allar þjóðir jarðarinnar, miðt í því hún sjálf hefir druckin verið af blóði þeirra heil-ögu (Op. 17, 1—6). En af hjartanligri miskun og meðaumkun yfir hörmúngum sinna heilögu, hefir Guði að vísu, fyrir nockrum öldum, þócks nast að frelsa ein part sinnar kyrkju, bæði í þessu og öðrum ríkjum, frá þeirri harmkvæla-fullu þvíngun og járnoki Babylonar; (c). Samt hefir þó veldi hennar framhaldið eingu að síður að verja og staðfesta sína hjátrúarfullu yfirdrottnun, yfir þeim stærri hluta meiginlands þessarar norð-urálfu. Að vísu skéði það, við þá minniligu uppreisn hinna frönsku, undir endalok næstliðinnar aldar, að sú þjóð sleit af sér, um hríð, yfirdrottnunar ok þess váfaliga stóls, og jafnvel þó hún innan-

skams geingist undir þad ad nýu, hefir þó samt þin franska uppreisn ollad ecki einúngis byrjun nýrrar tilfella radar í stjórnar sögu þessarar álfu, heldur jafnvel ogsvo í Páfadómsins yfirdrottunar frámgángi.

En eins og öllum má kunnugt vera hversu uppreisn sú vard tilefni slíkra hörmúnga, er geisudu svo frekliga, ad þær í full 20 ár útbreiddu hér í nordurálfunni þvílíka "ördýnglun og kvalníngu þjódanna", ad dæmi slíks finnast ecki í hennar árbókum; svo má hvörjum þeim, sem Tímanna Teikn med gaumgjæfni skoda vill, ecki sídur markverd sýnast önnur tilfelli, er þessum hörmúngum fylgt hafa. Því eins og á adra sídu, ad eitt villudóms skrýmsli, ad útliti meinleysis og mannelsku sem Lambid, en málfæris í kénníngum og lærdómi sem drekinn, hefir umstundir uppstígid úr brjósti jardliga sinnadra manna (Op. 13, 11) og útgeingid, jafnvel í anda hins falska spámanns, til ad uppæsa jardarinnar konúnga — edur fólk ad valdi, aud og vísindum ödrum mektugra — til strids móti Gudi (Op. 16, 13—14) (d), svo hefir á hina sídu sýnst, sem eingill sá, er eitt æfinligt Evangelíum hefir, hafi tekid sig upp til ad fljúga gégnum heiminn, og ad hrópa til allra, sem á jördu búa: «óttist Gud og géfid hönum dýrdina, því kominn er tími hans dóms" (Op. 14, 6). Pad er nægiliga ljóst, hvörjum sem med athygli spádómana adgjæta vill,

að það tímaskeið hljótur nú í nánd vera — og þess undanfari sýnist í áðursøgðum hørmúngum hafa vottað sig — þegar dómar Guðs skulu verða svo markverðir og ógnarfullir, að þeir áður hafa byrgt augu sín, fyrir augljósum Guðs vandlætis teiknum, skulu þá hljóta að sjá þau og skélkast. Til þvílíks eins tímabils lítur það, sem stendur Es. 26: «Drottinn þegar þín hønd er upplypt, þá vilja þeir ecki sjá; en þeir skuli þó sjá og skammast sín" v. 9 «þegar þínir dómar gánga á jørðunni, skulu innbyggendur heimsins læra rétt-vísina». En að þessa tímaskeiðs høfuðpúnctur sé enn nú oldúngis ókominn, er ljóst af því, að veraldarságann hefir híngað til aldrei framleidt nockur dæmi þess, að þjóðanna hørmúng hafi yfir høfuð verkað þjóðanna ydrun til Guðs; en aptur á móti eru þó — sem áður er sagt — sterkustu røk þess, að það hljóti nálægt að vera (e).

Það er vísuliga bert af hnísum atriðum í spámannanna ritum, að undan almenniligri útbreiðslu Evangelí um heiminn (f) eigi að gánga, eður og medfylgja þær minniligustu hørmúngar millum allra jarðarinnar þjóða. Til þessa miðar sá ótvíræði vitnisburdur spámannsins Zephaniæ (3, 8—9) er svo hljóðar: "þarfyrir bíðið eptir mér, seigir Drottinn! allt til þess dags, að eg rís upp til hérfángsins; því minn ásetníngur er, að samansafna þjóðunum, svo eg meigi hafa kónga-ríkin øll í einu lagi, til að hella yfir þau minni

reidi, því öll jördin skal verda uppsvelgd í eldi minnar vandlætíngar; sökum þess, ad þá vil eg snúa til fólksins hreinni túngu, svo þeir allir ákalli nafnid Drottins, og þjóni honum í einu samheldi». Þessu eru samhljóda ord Jeremiæ (30, 23 24 og 31, 1) "sjá eitt stormvedur frá Drottni fer áfram med ofsa, eitt óstödvandi stormvedur. Þetta skal falla med ógn yfir höfud þeirra vondu. Sú grimdarreidi Drottins skal ei hætta, unz hann hefir íramvæmt þad honum býr í sinni. Á þeim sídurstu dögum skulud þér sá ad komast ad raun um þetta. Á þeim sama tíma, seigir Drottinn, vil eg verda Gud allra ættkvísla Ísraelis, og þeir skulu vera mitt fólk». Þvílíkir vitnisburdir spámannanna um efni þetta eru ad öllu leiti samhljóda því sem út af opinberíngar bókinni má hérum álykta. Þessvegna finnum vér í henni, ad almenniligri útbreidslu Evangelí (14, 6—7) og einu sigri hrósandi ríki Christs á jördunni (14, 14—20. 15, 4, 17, 14. 19, 1—4) skal samferda verda úthellíng Guds reidi skála, því med þeim skal Guds reidi fullkomnast (15, 1) og þeirra úthellíng fylgir því þridja vej, yfir jördunni. (8, 13. 11, 14) (g).

Þegar vér nú athugum þetta allt, og undir eins, þá atburdi, sem á þessum tímum til útbreidslu Evangelí medal heimsins þjóda brúkadir eru, og í Christindóms sögunum ecki hafa sinn líka, hverjum þar hjá sýnist fylgja furdanliga stór og

frábær lucko, (h). Þegar vér nú hugleidum þetta allt, seigi eg, sem og þær á adra sídunu, eptir ádur' sögdu, skélsiligu strídsbormúngar, sem ad undanförnu þvíngad hafa þjódirnar, verdur þad meira enn gitsníng ein, já harlnær fullvissa, ad tilfelli þau, sem audkénna þá tíma, á hvörjum vér lifum, eru þvílík, sem mindi til uppbyrjunar þeir er ógnarfullu tíma og tilfella radar, sem ei skal hætta edur enda taka, fyrrenn Babylon (18, 2) sú módir hórdómanna, svovel sem dýrid og sá falski spámadur (19, 20) verda tilfulls og alls eydilögd, og allt til þess Christur ödlast þad fulla endurgjald fyrir sína pínu og dauda, med uppfyllíngu þess fyrirheitis, sem hans Fadir hefir géfid hönum: "eg vil géfa þér heidíngjana til arfleifdar og endimerkur jardarinnar til eigindóms». (Ps. 2. 8).

Sé nú þessum hlutum svoleidis varid, þá er þad viskuliga skylda christinna manna, sem þeir aldúngis ecki vanrækja meiga, ad þeir gjörist hyggnir, læri ad þeckja Tímanna Teikn, og hlýda raustu þess sem sagt hefir: «Sjá eg kém sem þjófur; blessadur sé sá sem vakir og heldur sínum klædum, svo ad hann gángi ecki nakinn, ad ei sjáist hans blygdun!» (Op. 16, 15).

a. Allir þeir Christnir í Gydíngalandi, sem í minni höfdu og reiddu sig á þau Jesú ord, sem standa hjá Luc. 20, 21 og Math. 24, 15—16, þegar þeir sáu ad Rómverja hér

lagdist um Jerúsalem, flúdu strags til stadarins Pella, er lá í fjallbygdum nockrum hinu meigin jórdanar, og annara þorpa þar í grend, og komust því allir lífs og heilir undan sverds eggjum Rómverja. Þetta hlaut ad verka merkiliga trúarstyrkíngu hjá Jesú lærdóms áhángendum á þeim dögum.

b. Þeisi 1260 ár, edur Páfadómsins aldurs tala (sem bygd er á Op. 13, 5. 12, 6. 11, 3) byrjast eptir sumra meiníngu, þega Bonifacius 3e var vidurkéndur allsherjar biskup Christ=nnar, en eptir annara, þegar páfinn fyrst tók ad offækja þá sem rétta trú höfdu, er orsakadist út af blætadyrdkuninni Anno 712, og ætti þá Páfadómurinn ad verda vid lídi allt til 1972. Þeisum 1260 árum sýnist Op. 12, 14 ad vera skipt í 3 tímabil og 1 hálft. Pad fyrstu hefir þá innihaldid 360 ár og nád allt til 1072, þegar Gregorius 7de tók sér vald yfir keisurum og kóngum í Evropa. Þar eptir hafa komid 2 tímabil samanlögd edur 720 ár, sem átt hafa ad endast 1792, edur um þad bil, sem hin franska stjórnarbilting tók ad olla nyrri tilfella röd í Pafadómsins historiu. Pad sídasta hálfa tímabil, edur 180 ár, sýnist byrja þegar sú fyrsta Guds reidi skál Op. 16, 2 tók ad úthellast, og ná þángad til sú sjötta er fullkomliga útausin, 1972, þá hin mesta makt Páfadómsins (hvör í Opinb. bókinni meinast fyrir sjónir sett, undir nafni Dýrsins af hafinu 12, 1—10, Hórkonu 17, 1—6, Babylónar 18, 2) er til grunna geingin. En nær mádur sumander Dan. 12, 12 sýnist sem nockrar leifar Páfadómsins eigi þó ad vid vara enn nú 75 ár, á hvörju tímabili,

að þeirri 7ðu skál úthelt verður, og þetta Satans ríki gjörsamliga eydilagt, nær skrifast skyldi Anno 2047.

c. Hér er meint til frelsis þess sem Gud gjørdi med endurbót trúarbragdanna á 16 öld, hvar til sumir meina heimfæra megi; (Op 11, 32), þar sem sagt er: að 10de hluti stadarins fallid hafi í einum jardskjálfta, er skédi, þegar þeir 2 endurlifnudu Guds vottar stigu til himins upp; þegar Gud, fyrir Luthers hønd, let þá heil. ritníngu (er, vegna þeirra tveggja Testamenta, álítst sem tveir Guds vottar) fá líka sem nýtt líf, og frelsast svo voldugliga úr páfans valdi (er ádur hafdi haldid henni sem daudri og dulinni fyrir fólki, líka sem hann hefdi numid hana úr høndum hans til himins upp; midt í því hennar lærdómar uppvøktu þó slíka titrun og hræríngu í sinni manna, ad mikill fjøldi sleit af sér páfans hjátrúar ok og yfirdrottnun.

d. Þessa eptirmind Páfadómsins í tilliti jafnskadligra meiníngra sønnum Christindómi, er þó undir annari og ólíkri mind nefnil. Dýrid, sem Jóhannes sá uppstíga af jørduuni (Op. 13, 11), er meinast annadhvørt hid sama, edur þá mjøg náskildt þeim falska spámanni er umgétur 16, 13. 19, 20 20, 10, sýnist myrkranna konúngur uppreist hafi, ríki sínu til vidreisnar, eptir þad endurbótin edur sidaskiptin høsdu svo mikid skard í þad høggvid Aldur þessarar ferynju vyrdist fígurulaust talinn (13, 18) ad vera 666 ár. Hvørra upphaf nær reiknast, skømmu eptir Luthers danda, nefnil. 1548 (þegar þau svonefndu interims- edur millibills trúarbrøgd innleidd voru af

keisaranum í Þýdskalandi, ad af hvörjum sídan spruttu þau indifferentisku, samanblands udust sídan þeim, skømmu ádur uppkømnu, socinianisku, og hafa sídan, undir ýmsum minnum og nøfnum frekliga útbreidst og ríkt á undansørnum tímum, og enn nú hafa ofmikla makt yfir margra hjørtum) afmáist þetta trúar-skrýmsli ei til fulls fyrr enn Anno 2214. Ad því búnu, á þad svo nefnda 1000 ára ríki Christs (20, 2 3) ad komast í hæsta blóma, jafnvel þó þad sé máské noctrum oldum ádur byrjad; sumir meina þegar Mahomet annar gaf Christnum í austurhálfsunni trúarbragda frelsi, adrir þegar þeir feingu þad líkasvo hér í þeirri vestlægu kyrkju, til dœmis med þeim vestphalisku fridi 1648; þar offóknir fyrir trúarbragda skuld hafa eingar stakligar yfir christna geingid, sídan á þeirri 17du øldu, jafnvel þó villulærdómar hafi ecki fyrir þad hætt, en fyrenn þeir og svo þverra, svovel sem offóknirnar, kémst Christs kyrkja ecki til fullkomins frelsis. En þetta sýnist ecki muni til fulls ské géta, fyrr enn á þeirri 21tu edur 22ri øldu, þá bædi flestir Heidíngjar, Tyrkjar og Gydíngar munu, eptir því sem ad ráda má af spádómunum, verda ordnir limir þeirrar sýniligu Christs kyrkiu. Eptir þad synist sem Christs-kyrkiu muni í mesta blóma verda, til þess á ofanverdri 27du øldu; en þá er af, Op. 20, 7 8, samanbornum vid Ezechiels spádóm 38, 2 7, ad ráda, ad byrjast muni aptur geisiligustu offóknir móti Christs kyrkju, af eptirleifum þess mahometanisku ríkis í austurálfunni Gog og Magog; en ad lidnum 7 spádóms mánudum (39, 14) edur 210 árum, þad er vid endalok þeirrar 29

aldar, skuli þessir allra síðustu Guðs kyrkju sýniligu óvinir, verða, fyrir Guðs krapt, eldúngis afmádir, og kyrkjan búin að fá æskiligan og stadfastan frið, hér á jörðu, hvör ed þá. innan skémra eður leingra tíma abilš, mun, fyrir Christis tilkomu til dóm sins, breiðast í fullkominn og eilífan á himnum.

e. Það má nálægt kallast þó nockrir manns aldrar útrenni uns það fullkomnast. Heimur þessi hefir nú 8 um fimtugt (nær 1 ár heimsins teljast 100 ár mannsins, svo þó hann næði fullum 8 tugs aldri, áður eður enn hitt rætist, má það eingu að síður hardla nálægt teljast. Sú eldgamla meining: að heimurinn verði hér um 7 þúsund ára gamall, eður að hann verði 2 þúsund undir Evangelio, en 1 þúsund verði sabbath christiligrar kyrkju, sýnist sumpart bygd á reynslu sumpart á spádómum.

f. Það er merkiligt, að eins og útbreiðsla Evangelií um heiminn í fyrra sinni geck undan Christis komu til að dæma Gydínga þjóð, svo á þess útbreiðsla aptur í annað sinn að gánga undan hans komu til að dæma allan heiminn; og svo sem hin síðari dómur verður hinum háttdligri, eins líkligt sýnist að sú síðari útbreiðsla Evangeli verði hjá hinni fyrri.

g. Þau þrjú vei sem Op 9. 12. 11, 14 umgétur að yfir jörðina koma muni skilja sumir fyrir þá þrjá villulærdóma, þann Mahometaniska, Catholska og Indifferentiska, er sálum mannanna hafa hinir allra banvænustu verið; eins og þessir somu í vorn tilliti vegna þeirra útvortis og eyðileggjandi maktar,

er þeim fylgt hefir, líkiſt; ſá fyrſti ſvid eld-raudan vatnsflódi ſpúandi dreka Op. 12, 3, ſá annar vid ſjóhøfdad ſkrýmſli úr ſjónum 13, hvørted ber þá ſtóru hórkonu 17, 4 og hinn þridji vid tvíhyrndt dýr af jørdunni 13, 11 med þeim falſka ſpámanni 16, 13 af hvørs ſvip ad rada má, ad þad muni þó ecki, ſem hinir fyrri óvættir, ofſóknir, en þó jafn ban-vænan villudóm, vekja.

h, Hér er meint til þeirra ýfrid mikilvægu at-burda, ſem Chriſtnar þjódir hér í Nordur-álfunni — einkum hin enſka — eru á þeſs-um døgum teknar ad brúka til ad boda chriſti-na trú, bædi á medal Heidíngja, Tyrkja og Gydínga, ſvovel med því ad útſenda kénn-endur, ſem med því ad útbreida biblíur og ønnur andlig rit um alla vída verøldu; hvør-jum atburdum Gud ogſvo tilleggur frábæran, og aldrei ádur — ſídan á poſtulanna døg-um — jafnluckuligan framgang í møргum ſtødum; ſem alle vekur og nærir þá ſtóru von í chriſtinna manna hjørtum, ad ſú bleſ-ada tíd, er ritníngin fyrirheitir, ſmámſaman í hønd færiſt: ad allar heimſins þjódir muni ſnúaſt til chriſtiligrar trúar, ſvo þar lokſins, eptir Frelſarans ordum, verdi eitt ſauda-hús og einn hyrdir.

Þeſs bidur ritarinn ad lyktum, ad eing-inn af þeim einfaldari leſendum þeſſara ſkríngar greina, taki ſvo meiníngu þeirra, ad hann vilji med þeim leyſa úr þeirri, allri mannligri ſkinſemi óràdanligu, gátu um aldur heimſins, edur áreidanligt ártal ókom-inna tilfella chriſtiligrar kyrkju; fjærri þviſt þær eru ad eins hér tilſettar, ad vekja audmjúkan eptirþánka og addáun yfir Guds

rádstöfunum í tilliti sinnar kyrkju hér á jördunni, hvörrar forlög hann í spádómum ritníngarinnar oss ad eins grilla lætur, ad oss því sídur hugfallast skuli, þó vér sjá meigum uppá, ad þmist Christis kyrkja edur hans lærdómur, hljóta hér í heimi ad lída bædi þúngar og lángvinnar ofsóknir, já opt verda, líka sem hofuudur þeirra krossfestt millum tveggja spillvirkja, hjátrúar og vantrúar, hvar þó loksins mynu, sem hann, voldugum sigri hrósa yfir öllum sínum óvinum, heimugligum og opinberum. Í einu ordi, allt hvad skrifad er, svovel í spádómsbókum heilagrar ritníngar, sem annarstadar, er skrifad oss til lærdóms, svo vér fyrir þolinmædi og huggun ritnínganna, hefdum vonina.

---

## Til uppvakníngar.

Einginn veit næred kallid kémur", og klappad mun uppá lífsins dyr"; vöku- og bænar-verk sá fremur", verdur til reidu síd og fyr". Sælan má kalla soddan "þjón"; sá þarf ei óttast dómsins trón!

Hinn hvör ed sefur heims vid glauma", hann er vesæll og dári' um leid"; hreppa mun loksins útför auma", þá yfir hann brestur daudans reid". Til eilífra kvala dæmdur deyr"; Drottins náð hönum bydst ei meir.

Lát þig ei villa vesæll madur", þó veröldin
sýniſt dansa gladt", hennar er luckn stopull stad-
ur", steypast mun synda veldi hradt" bygd þína
reistú bjargi á"; blessud Guds nád þad heita má.

Taktú vel vara' á tíma þínum", teiknin at-
huga', er votta sig"; snúdu þér brádt frá lásta
línum", lífsins ad hitta meigir stig". Búdú þig
undir dauda' og dóm"; Drottins heidradú nád-
ar-róm.

Vak þú mín sál, og vert til reidu", vel
taka þínum Jesú mót!" sýndú med elsku gédi
greidu" grædara þínum hlýdnis hót!" settú þitt
traust á sjálfan hann", sem þér hjá Gudi miskun
fann.

---

## Vernd christiligrar kyrkju.

(Gellert).

**Lagid: Ovinnanlig borg er vor Gud.**

Ef Christur sína kyrkju ver", kraptur má vitis
æda"; hann til Guds hægri handar er" heptir
þess valdid skæda"; hann er med hjáslod nær",
hvad hann vill stadist fær; sinn verndar veldis róm"
vidheldur Christindóm", vitis þá soll ad stæda.

Gud lítur heimsins herra tídi" hefjast mót sér ódæla"; hans son, þann smurda, heidra lítt", hatandi hans ordid sæla". Þeim hyrdir hafna þeir"; hans nád ei vyrda meir"; krossinn hans hæda þrátt", hlær Gud ad slíkum dátt" hvørsu sem hrokann stæla.

Þó spottendur sannleik hædi hér", hønum ei rænt oss géta; þó illfúsir þverúd sýni á sér", samt trúna skulum meta". Sé Jesú sómi hreinn"; sá hans er lærisveinn", hans ordid heldur víst", heims fyrir vélin sídst", andar í fár mun seta.

Upp, Christnir! þér sem alid trú", ógn skulud neinni kvída". Gud sem af himnum horfir nú" hlífd ydur veitir frída". Himneski Herra Gud!" haldast þín láttú bod"; þolgjædi géf í neyd", gledi med styrk í deyd!" svo ótti unst ei ógnir strídar.

---

Kaupmannahøfn 1821.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.